# Framhald um Christnibodid medal heidíngja á þessum sídari tímum.

Øllum þeim medal Landa minna, er í sanníleika gledja sig yfir Jesú nádar-ríkis útbreidslu og efslíngu medal Adams barna, (hvad allir þeir gjora, sem sjálfir eru þess sannir borgarar), vil eg til andligrar áuægju, meddeila hér eina af þeim merkiligu Rædum, sem haldnar verid hafa á Samkomum þess-nýstiptada Missíons Félags í Danmørku, sem sýnir, hvílíkur Andi ríkir í þess Stýrenda hjørtum, og óskandi væri, ad kveikt gæti þann himneska eld — sem Rædan umtalar — í brjóstum þeirra, sem hana lesa edur heyra.

Bænin fyrir.

O Drottinn Gud! heilagi Andi! þú Jesú Christs andi! vertu nú hér med þínum gudsómliga krapti nálægur!

Hrærdu túngu mína, ad eg talad fái Jesú Ord, sem einn Jesú Þénari, og hrær þú tilheyrendanna hjörtu, ad Ordid komi ecki tómt til þín aptur, heldur verki þad sem vilja þínum sambýdur! Auglýs þinn krapt í vorum breiskleika! Lát oss, med adstod þinni varpa eldi á jördina; eldi þeim, sem vor guddómligi Frelsari varpad hefir í vor hjörtu. Med adstod þinni unn oss ad hella vidsmjöri ad eldi þessum, þar sem hann allareidu kveiktur er, ad hann blossad fái þess meira og breidt út sinn blessada varma, fra bródur til bródurs, fra systur til systur, fra þjód til þjódar, frá ættkvísl til ættkvíslar! Verdi nú sá ávöxturinn af ordi því, sem hér í dag talast skal, og verkunin af því ordi, sem hér eptir lesid verdur! Herra Jesú! uppá þitt ord köstum vér netinu út; Í þínu Nafni bidjum vér, og erum þessvegna aldeilis fulltrúa um bænheyrslu; því um hvad helst vér bidjum í þínu nafni, þad mun þinn Fadir veita oss! Amen! í Jesú nafni!

---

„Eg er kominn ad varpa eldi á jördina,“ segir vor guddómligi Frelsari hjá Gudspjallamanninum Lúkas í 12ta Cap. 49da versi. „Eldi er eg kominn ad varpa á jördina“ þessi eru hans Ord? og hann siálfur hefur á undan,

í sama Capítula, sýnt: hvad fyrir Eldur þad sé, er hann vilji á jördina kasta. Lesid adeins, t. Tilh. þann tilsekna Capítula, og munud þér sjá (a.), ad þad var sá eldur, sem vermir hjört-

a) ad vísu skilja margir ódruvísi þessi Jesú Ord, og segja ad hann meini hér fyrir Eld, ófrid þann, er lærdómur hans olla mundi medal mannanna. En ástædur hinna eru þessar:

Fyrst, sem hér í Rædunni er tilbendt, ad Jesús á undan talar um þá ákofu og rétt eldligu Drift, sem sannir Guds dýrdkendur sýna fyrir því eilífa, og eflingu Guds dýrdar hér í heimi.

Þarnæst, ad Jesús segir sig inniliga girni, ad Eldur þessi taki sem fyrst til ad brenna; en ad hann æski ófridar, sem er Fridarhöfdingi (þó hann vissi hann koma mundi) þykir ólíkligt.

Loksins sýnist Jesús fyrst í 51 versi minnast þess, ad ófridur muni af kenníngu sinni standa, af voldum óvina sinna, enda þó hann kveikt hafi eld kjærleiks og heil. driftar í hjörtum sinna vina, og segir þeim ad þeir megi vid slíku búast.

Samt neitast ecki, ad þeir sem ódruvísi útleggja, hafi líka sínar mikilvægu ástædur. En þad besta er, ad beggja útleggíngar géta samstemmt reglu trúarinnar (Róm. 12, 6).

rn med brennandi ákafa, fyrir því eina nauðsynliga. Eldur, sem ecki mundi líða jarðarinnar innbyggendum að bræsna fyrir sannleikan og dylja hann, eins og Phariséar gjordu, heldur frjálsliga og opinberliga játa hann fyrir mønnum v. 1-3). Eldur, sem brekja skyldi hræðslu fyrir dauðligum mønnum, útaf Christinna manna hjørtum, og uppvekja þá til að gjora Guðs vilja (v. 4-12). Eldur, sem uppbrenna skyldi og að eingu gjora ógirnd, vellyst, drambsemi, og alla plógandi hugsýki fyrir þessa Lífs næríngu og notum (v. 13-30). Eldur, sem, nærdur af ótakmorkuðu trausti á Guði, fylla skyldi Sálir manna með kjærleika, með brennandi girnd að útbreiða Guðs ríki, og ábyggju fyrir því eilífa og ósýniliga, svo þeir seldu allt hvað þeir áttu í heimi þessum; svo þeir sleptu olla því hégómliga, og képtust að eins við að géfa ølmusur, eða sem Postulinn kallar það, „að gjora gott og þreytast ecki;" svo þeir gjordu sér sekki, sem ei eldtust, og søfnuðu sér sjóð á himnum, eptir hverjum þjófar fá ei grafist, né mølur grandað; svo þeir að eins að líkamanum til voru hér á jørðu, en að sálunni til á himnum, hvar þeirra sjóður var; svo að lendar þeirra voru altíð umgyrdtar, og ljós þeirra logandi, nær sem Brúðguminn koma kynni; svo

þeir vóru trúfastir midt í öllum lífsins biltíng-
um, til þess þeir gætu hæfir ordid ad fá hlut-
deild í eilífri sælu hinumegin grafarinnar. Sjáid
nú, gódir Brædur! ad þetta var Eldur sá, sem
Jesús kominn var til ad varpa á jördina! En
myrkranna höfdíngi vildi varpa ödrum eldi;
það var ófridar, tvídrægnis, haturs og ofsókna
eldur; med elti þessum, sem upptendradur er af
helvíti, ætladi hann sér ad uppsvelgja og ad
eingu gjöra þennan himneska eld, sem Frelsarinn
varpadi á jördina, og sem í fyrstu ecki sýndist
vera nema lítill neisti, hvörn hægt væri ad út-
slockva; því myrkranna höfdíngi sýnist altíd
mátugur vera í heimsins börnum.

Það er víst, ad vor Endurlausnari spáir
hér um í endalykt vors Capítula, nær hann med
ljósum ordum fyrirsegir: ad, eins og sjálfur
hann átti ad skýrast med hörmúnga- og písla-
skírn, eins skyldu þjónar hans ecki vænta strax,
ad ödlast fridar og fagnadar daga, heldur
vita med vissu, ad fyrir þeim lá hatur heimsins
og ofsóknir (v. 50-53). Hann væri ad vísu
kominn til ad varpa heil. Eldi á jördina; en
vanheilagur Eldur mundi þó blossa hátt til ad
slockva hann. Sannt til forgéfins. Því loks-
ins mundu þeir hans mótstandarar, sem af ásettu
blindir vóru, og sem stundudu ad eins eptir
tvídrægni og vondu athæfi, verda ofurseldir

Dómaranum, og innilykjast í fángelsi, uns þeir lokid hefdu hinn sídarsta peníng, og afdrukkid allt í botn, bikar hans réttlætis hefudar (v. 54 = 59).

Sem Jesús taladi, svoleidis skédi þad; Sjáid, k. V! Eldi varpadi hann á jördina; þad leid ad vísu nockur tími, þar til hann kveiktist upp í þeirri litlu hjörd, hvörjum Födurnum þóknadist ad géfa ríkid. Sjálfa Postulana dreymdi í nockur ár, um, ad þeir ödlast mundu frid, góda daga og velstand hér á jördu; um ad byggja tjaldbúd á fjalli og lifa þar í gledi og gamni; um ad sitja sem rádgjafar til Kóngsins hægri og vinstri hlidar; og um ad draga út sverdid, til þess, á dásamligan hátt ad ödlast blódugan sigur yfir sínum mektugu fjandmönnum. Allt til þess Jesús förnfærdi sjálfum sér, hefdu þeir enn nú ecki skilid þad rétt, ad þeir daudu ættu ad grafa hina daudu, og ad þeir ættu ad selja alla hluti fyrir þá einu dýrmætu perlu, ad einúngis eitt væri naudsynligt, og þeir ættu ecki svo ad ígrunda þá hluti, sem heyra mönnum til, heldur Gudi. Samt eptir þad, Frelsarans Ord uppfyldt vóru, eptir þad hann skírdur var med sinni hörmúngar og pínu skírn, og þeir hefdu séd hann aptur upprisinn af dauda, þá skildu þeir þad Ord, sem hann hafdi talad, þá brann þeirra hjarta í þeim, þá lærdi neistinn sig út, hvör-

jum varpad var í þeirra innra mann, þá tók hann ad blosſa; nú héldu þeir í eindrægni ſaman og vóru ſtadfaſtir í bæninni, og þá fullkomnadi Jeſú heil. andi þad uppbyrjada verk; því hvor ſem bidur, odlaſt.

Sem ſýniligt teikn þeſs guddómliga Elds, ſem vermdi þeirra ſálir, ſáuſt elds logar yfir hofdum þeirra, og þeir toludu Guds ſtórmerki, allt eptir ſem Andinn inngaf þeim ad tala. Sjálfir nú gagnteknir og glóandi af eldi þeim, ſem Jeſús varpad hafdi á jordina, kveiktu þeir aptur í hjortum brædra ſinna einn Eld, hvors háleiti og himneſki uppruni vard audþekkjanligur, og yfir hvors veldi ad heimurinn féll í furdu. Þeir mektugu Gydínga rádherrar, ſem Lífſins hertoga hofdu líſi ſvipt, leitaduſt med hótunum, med fángelſi, med ſvipum og med margſlags oſſóknum, ad dempa Eld þennan; Heródes dróg út ſverdid, og lét hálshoggva Jacob, þad uppvægda fólk grýtti Stephán í hel; og hvor er ſá medal vor, ſem ei þekki þær morgu ſkelfilegu oſſóknir, ſem í Gydíngalandi, litlu Aſía, Macedónia, og á morgum odrum ſtodum mættu Pauli og fleirum Jeſú Chriſts þénurum? Eda hvor er ei, ſem kanniſt vid, hvorſu Rómaveldis voldugu Keiſarar og þeirra ſtrídshetjur, ſem fleiri af þeirra undirſátum, þarad auki heidíngjanna ſpekíngar og Godapreſtar; í fám ordum;

hvorsu ad Myrkranna óteljandi þjónar, reyndu, í heil 300 ár, med ofbeldi, misþyrmíngum og skélfiliguslu píslum, til ad gjora megn Elds þess, sem brann í hjörtum hinna fyrstu Christnu, ad eingu? En þad skédi þvert á móti. Nær 10 þúsundir vóru offórtar og þúsundir deyddar, kveiktist Eldurinn á ný í hjörtum enn fleiri, og verkadi þvílíka ákéfd, trú, kjærleika og stodugllyndi, sem vinnur til allra stærstu addáunar.

En — Gud komi til! Eptir þetta tók Myrkranna hösdíngi ad hvísla í eyru þénara sinna: „géfid þeim christnu góda daga! lokkid þá med veraldar metordum, med audæfum, makt og velgeingni! Móske Eldur sá, sem ei verdur slokinn med ofbeldi, kunni med slægsmunum ad eingu gjorast!" og sjáid, k. Br. þad sýndist sem þad tækist, sem Myrkranna fadir æskti. Þeir flestu af Safnadanna Einglum edur forstodumönnum, tóku ad strída hvor vid annan um ærustig og forgaungurétt, um Gull og Silfur, um ríkar inntektir, um útvortis skraut og hillsi; þeir hrisu þad heimsliga herradæmi til sín, en töpudu því andliga. Þeir kolludu sig Herra og Meistara, jafnvel þó einn sé Herra og Meistari í Guds kyrkju, nefniliga Jesús Christus; þeir tóku sér vald yfir Kóngum og Keisurum, og þeir útbýttu Ríkdómi og Makt

og óteljandi gledi medölum fyrir sanfana, til vina sinna og ébángenda. Svoleidis misski salt-id sinn krapt, og med hvörju skyldi þá saltast? Á þann hátt var Ljósid sett undir Mæliask, og hvörnig skyldi þad þá sjást af þeim, sem í hús-inu voru; O ney, nær mennirnir vyrda meir Myrkrid enn Ljósid, blýtur ljósastjakinn frá þeim burt ad flytjast. Svo hafdi Drottinn talad fyrir sinn heil. þénara Jóhannes (Op. b. 2, 5). segjandi: „af þvi þú yfirgéfst hefur þinn fyr-sta kjærleika, vil eg hastarliga yfir þig koma, og þinn ljósastjaka úr sínum stad flytja, ef þú ecki umvendir þér." Á þennan hátt hafdi Drottinn talad, og þannig skédi þad.

Já þar uppkom Myrkur í Gudskyrkju, sem var ad aukast í þúsund ár, og um sídir vard þad yfirmáta skélfiligt. Biblíunnar heil. Bók vard apturlukt og innsiglud, og ein dauds-lig Manneskja hlygdadist ecki vid ad skýga upp í Drottins hásæti, og setja sig í stad þess Eilífa. Nú, svoleidis sýndist þá Eldurinn vera útslokinn, og sannur Christindómur ad eingu gjördur hér á jördunni. Já, svoleidis sýndist þad. En Drottins nafn sé lofad! þad var þó ecki svo í raun og sannleika. Enn nú braust Eldurinn hér og þar um í frómra manna hjört-um, og enn nú logadi ljósid hér og þar und-ir mæliaskinum. Ad eins blossadi Ljósid og

Eldurinn ecki þeckjanliga fyrir þeim stóra hóp; adeins dempadist skyn þess allt of opt af hrædd-slu fyrir myrkranna geistliga veldi; þó leiptradi þad stundum út, og menn sáu geisla þess og tók ad lánga eptir ljósinu; því þeir fundu, ad sá sem í myrkrinu gengur, rekur sig allstadar á. Med þetta slag blossadi Eldurinn hátt í þess edla Jóhannesar Húss og hans trúfostu vina hjortum, og innbyggendurnir í Búheimum urdu heitir, og Eldur sá ed heitti þá, brennur enn nú í þeirra áskomenda hjortum, sýnir sig kroptugan í dád og dugnadi vorra Evangelisku Brædra. En þó sýndist Eldur sá, sem undirdjúpsins vondi Andi kveikti i Costnits, og reykjardampar þeir sem uppstigu af brennu-Húss og Hieronymúsar aptur um hríd ad dempa hinn mektuga blossa, hins ádurnefnda heil. Elds. En þar eptir braust hann út þess sterkligar. Þar uppreis einn kappi í Israel; nefnil. sá ógleymanligi Lúther frá Wittemborg; hann feikti Oskunni burt, og sá himneski Eldur tók ad bálast med háum loga. Í sínu fángelsi í Wartborg tók hann burtu þann rómverska Mæliask, sem hafdi Ljósid hulid; og hann setti þad á ljósastjakan, svo þad skein med himneskum ljóma fyrir ollum þeim, sem ej elskudu Myrkrid framar enn Ljósid. Ad sonnu heyrdist mikid þrumubrak og Eldingar sprúngu,

ein eptir adra yfir hofdi honum. Ad sönnu hötudu hinist verdsligir, hinist geistligir bannfæringa blossar þá og þá ad ljósta hofud hans, en „vor Gud var honum svo óyfirvinnanlig borg" ad hann komst ad fullri raun um, ad Jesús Christus var med honum, og lénti honum marga trúfasta medstrídendur, og verndadi hann gégn öllum hans óvinum, inn til hans sídarsta lífsdægurs. Nú blossadi aptur Eldur sá, sem Jesús hafdi á jördu kastad, og þeir sem leingi hofdu í daudans dalverpi setid, sáu dýrdligt ljós.

En hvornig fór nú framveigis? Lúther hafdi rádist á Lýgina, en þess var ei leingi ad bída fyrr enn eptirkomendurnir rédust á Sannleikan sjálfan. Lúther hafdi skúfad hinna folsku kénnenda raungu meiningum, en þad drógst ei leingi, uns eptirkomendur hans skúfudu sjálfu því eilífa lífsins ordi. Lúther hafdi ausid af þeim hreina og heilaga brunni Ritningarinnar, en þad vardi skamma stund, uns eptirfylgendur hans jusu af þeim saurugu brunni sinna eigin innbyrlínga, því á þann hátt vildi Audi Drambseminnar, enn nú einusinni, med nýrri slægd, reyna til ad dempa Eldinn og útslöckva Ljósid. Og í sannleika ad segja, var á vorum dogum ærid nærri komid, í þessu tilliti. Hvor er sá medal vor, er ei meigi med

skélfíngu minnast þess, hvorsu ástadt ordid var hér (i Danmorku) medal vor fyrir 2 edur 3 tugum ára? Var ecki Biblían ordin þeim fleslu framandi bók? Var ecki Guds Ord horfid úr morgum þeim svo kolludu Gudshúsum? Uppvéx ecki úngdómurinn, af hvorutveggja kyni, allt til 15da og 16da árs, án þess ad hafa feingid nokkra uppfrædíngu um Lífsins hertoga? Vóru ecki trúarbrogdin, sem vera eiga mannesqjum þad mikilvægasta naudsynja efni, ordin ad hjáverki? Var ecki Jesú Christs nýa Testament nærfeldt oldúngis burturýmt úr þeim lærdu Skólum? Létust menn ecki bera hræsnada vyrdíngu fyrir Herrans bodordum, midt í því þeir drógu gis ad trúnni á hann, og hæddu hans personu? Já, þóktist ecki vantrúarinnar skæmi audi háfa allareidu sigurinn í hendi hér? því kyrkjurnar urdu tómar, og olturin yfirgéfin. Hvorsu hrokadi hann sér þá upp? Blés han ecki, med sigurópi, í básúnuna, og sagdi: „rífid nidur kyrkjurnar! Afmáid þeirra þarflausu þénara, edur leggid svo miklar veraldligar sýslanir uppá þá, ad þeir ei géti Guds ord talad!" Var ecki trúin spottud opinberliga, og þad jafnvel hér og þar í kyrkjunum? Var ecki skammarligasta Gudlast útbrópad vída á gotum og strætum? Var þá ei dármenska kollud, ad fara út og boda Evangelium Gudsríkis allri

skepnu? Sýndist þá ekki sem útgjördt væri um Christindóminn? Andvörpudu ecki Gudsbörn þúngaliga yfir þessu í sínum hjörtum? Ofbaud ecki mörgum ad hugsa til þeirra tíma, sem láu fyrir þeirra uppvaxandi úngdómi? Byrdist þá ecki, sem sá heil. Eldur, er Jesús á jördina varpadi, væri hreint útslokinn, nærfeldt hjá öllum, í þeim stödum, sem þó létu sig Christna kalla? O jú, þad sýndist svo, en lofadur og vegsamadur veri Drottinn Gud, hvörs Ord ad eru eilíft já og Amen! þad sýndist svo, en reyndist ecki!

Forgefins hafdi Löginnar Fadir og þjónar hans æpt sigurióp, og orsakalaust hofdum vér óttast maktir þær, sem aldrei skulu neins orka móti Jesú kyrkju. Rétt vid endalok þeirrar 18du aldar, rétt á þeim tíma, sem hálfvelgja og hyrduleysi sýndust ad vera stigin sem allra hærst, vard Eldurinn á ný upptendradur. Þad sem vorir evangelisku Brædur höfdu allareidu ádur fundid til, til þess sama tóku nú ad finna fleiri í ýmsum ríkjum, einkum í því Bretska ríki, sem fyrir sína adburdi ber af ödrum. Þad var kjærleiki Christs, sem þeir fundu til, og sem þreyngdi þeim; þad var þessa kjærleika heil. Eldur, sem báladist upp í þeirra hjörtum, og blossar hans breiddu sig út, til nálægra og fjarlægra þjóda, og kveikti nýan

Eld í vina og jafnvel óvina hjörtum. Á þenn- an hátt uppvaktist bædi Christnibods andinn og Biblíu andinn; og menn tóku nú ad útsenda kénnendur til allslags þjóda, heidíngja og túng- umála, sem undir sólunni til eru; og menn fóru nú ad útleggja og útbreida Biblíunnar heil. bók, í þeim margvísligu túngumálum, sem til eru í heiminum, svo menn þá aptur í annad sinn hófu ad tala í framandi túngum, Guds heil. Stórmerki.

Og sjá! þessi Eldur hefur breidt sig út, svo hann nærfeldt er uppkveiktur í gjörvollum Christindóminum. Ein þjód képpist nú vid adra, ad boda Lífsins Ord, innan og utan hennar ríkis takmarka; og hvörutveggi, bædi þeir sem útsendir eru, þó þeir hafi þraungan, mædusáman og lífshættufullan veg ad gánga, og hinir sem sen- da þá, fagna yfir því dýrdliga Frelsi, sem Gud veitir morgum, fyrir þeirra adburdi, og lofsyng- ja þeim Drottni, hvörs almættis hönd þeir finna svo bert, ad er í verki med. Menn eru nú gladir yfir, ad géfa burtu Gull sitt og Silf- ur, sitt erfidi og atorku, til ad ávinna þær dýrkeyptu sálir, til Guds ríkis. Eckjurnar sjálfar og þeir fátæku daglauna menn, já smá- bornin, frambera med gledi sitt offur, og þeir sem hafa safnad med sorg, frambera med fagn,

adarópi, hvartil vèr sjálfir höfum í dag haft glediligt dæmi. O hvorsu gledur sig mitt hjarta og minn Andi vegsamar Drottinn sökum þess ad Eldurinn er líka svo kveiktur medal vor, og rétt á þessum tíma vermir svo mörg hjörtu í þessum Söfnudi.

En látum okkr ei gleyma þyk, ad Eldur þessi er ogsvo tendradur medal þeirra villtu og ádur hundheidnu þjóda, já hann blossar þar med þvílíkri blessun og krapti, er fylliga sýnir og sannar, ad þad er himneskur eldur, uppkendradur af Jesú Christs heil. Anda. O hvor sú manneskja, sem gledur sig yfir Lífsins brandi, og sjálf smackad hefur í sér þess krapt og sætleika, vegsami Ljóssins ljúfa födur, sem hrifid hefur sín vesælu Börn, út af þeim daudans myrkrum, í hvorjum þaug sveimudu. Og — hvad er þá sem eg sé?

Hvorjir eru skarar þeir, sem þarna fara med fagnadar ópi, ad Hottintaranna býhýlum? Eru þad ecki gamlir og úngir, eru þad ecki foreldrar og börn, eru þad ecki menn og kvinnur sem sigurhrósandi bera einn Jesú þénara inn í hreisi sín, til þess ad læra af munni hans nádarinnar bodskap, þad lífsæta Evangélium um syndaranna frelsi fyrir ráni og mordi medal þeirra villtu ættkvísla? Er hann ecki Africaniskur? Er þad höfdingi sá, til hösuds

hvorjum sett vóru stór laun, sokum þess hann var líkur glepsandi Ljóni; en siá! Jesú Evangelíum hefur nú svo blídkad hjarta hans, ad hann ordinn er verndari þeirra varnarlausu? Eda hvad sé eg enn framar? Hvad mun þad fyrir reykjardampa, sem leggur upp af Sudurhafsins eyum, hvar menn hafa ádur vanir verid ad slátra og fórna Manneskjum? já, hvílíkur óvidjafnanligur fognudur og gledi! þad er frá þjód þeirri, sem sjálfkrafa uppbrennir sín Afguda musteri og þeirra blódistorknu bílæti, og umturnar þeim daudra manna reit, hvar svo margir hafa med óngist blotid ad leggja af lífid, fyrir þeim óttaliga offurknífi!

En því munu þeir byrjad hafa þetta fyrirtæki? Af því þeir hafa heyrdt sagt frá Jesú Christ, og vilja því tilreida veiginn fyrir þessum Drottins Smurda.

En nær skyldi eg hætta rædu minni, ef eg nefna ætti allar þær dýrdligu (mindir, sem sveima nú fyrir sálu minni, og sem bera vitni um Eld þann, sem Jesús Christus á jordina varpad hefur? Ad eins má eg þessu vidbæta: því meira sem hann, eptir spádómi Christs, útbreidst hefur, því særsælli hefur hann gjordt, bædi mentadar þjódir og ómentadar; þess berligar sýnir þad sig, ad hann ei er kveiktur af heimsligri speki edur jardneskri makt. En

þess öflugar sem hann, í sérhvörju tilliti, vitnar um sinn himneska uppruna, með því stærri ákéfð og hreinskilni ættum vér að biðja fyrir siálfum oss, brædrum vorum og systrum, að Eldur þessi aldrei framar dempist, heldur útbreiði sig víðar og víðar, vermi fleiri og fleiri hjörtu, og auðsýni dagliga, æ betur og betur, verkun sína, uns að Herrann kémur, og hinn mikli dagur upprennur, á hvörjum þar vera skal ein hjörð og einn hyrðir.

Bæn eptir.

ó Herra, himneski Faðir! ó Herra, elskulígi Frelsari! ó Herra, heilagi Andi! æ um þetta biðjum vér þig nú allir með auðmjúkum hjörtum! hjálpa þú oss siálfur, því ón þín megnum vér einkis, að vér aldrei af drambi, af heimsligu sinnislagi, eður af ótta fyrir mönnum, dempum Eld þann, sem þú nú aptur að nýu, svo náðarsamliga, fyrir þitt lífsæla Evangélíum, kveikt hefur í vorum hjörtum; heldur gjör oss, dag frá deigi, æ meir og meir glóandi í anda, kostgjæfna til þess góða verks, sem leitast við að útbreiða sanna lucku og farsæld meðal allra vorra brædra og systra! Blessaðu og svo orð það, sem á þessari stundu talað er; að fyrir það mættu ávinnast enn fleiri stallbrædur, sem með einum huga ásamt oss

verka vilji til þíns Ríkis útbreidslu! Blessa öll þaug Félög, sem á öllum jardarknettinum verka til þessa stóra augnamids! Veri þín vernd yfir öllum þeim, sem útsendir eru til ad erfida í þínum víngardi! Vardveittu þá í þínum kjærleika, ad þeir, svo héreptir sem hingad til, vera mættu ein sál og eitt hjarta! Margfalda þú ávextina af þeirra kjærleiksfullu vidleitni og kappsmunum! Frelsa þú, fyrir þeirra hönd og vora, margar dýrkeyptar sálir! og unn oss sídan, ásamt þeim, og þeim med oss, medal þúsunda þinna heil. Eingla og útvaldra, ad syngja þér eilíft hálelújah! Lofid Drottinn! Amen, í Jesú nafni, Amen!

---

Af þessari ádurskrifudu ógjætu rædu sést: ad þad hafa sjerdeilis þrjú tímabil verid, á hvörjum sá himneski Eldur (sem rædan umtalar), hefur merkiligast útbreidt sig og vottad sinn guddómliga krapt i mannanna hjörtum. Nefniliga.

1) á Postulanna dögum, og svo eptir þá, svo leingi ossókna tíminn yfirstód, allt til þess á þeirri 4du öldu eptir Christis fædíngu. Þar eptir tók hann mjög ad dempast og spillast, eptir því sem hjátrúin og med henni Páfadóm-

síns veldi fór vøxtum, svo han sýndist rétt sem útslokinn, jafnvel þó litlir neistar hans, endur og sinnum, hér og þar, létu sig í ljósi.

2) á 16du øldu, med endurbót Trúarbragdanna, sem Lúther, og hans mederfidarar verkudu, braust hann um hríd fram á ný, med miklum krapti; en sá heil. blossi vardi allt of stutta stund, þegar Vantrúin, undir dularfeldi mannligrar skynsemi, braut undir sig þad ríki, frá hvorju systir hennar, Hjátrúin, fyrir skømmu brakin var, sýndist sá heil. Eldur rétt sem gjørslokna mundi. En.

3) um nærstlidin aldamót, tók hann aptur á ný, fyrir Guds nád, merkiliga ad úbbrjótast; um hvad vitni bera þaug mørgu Féløg, sem sídan, til Evangelii útbreidslu, hafa stofnud verid, og sem órliga fjølgad hafa. Þó meigum vér svo vidbúast, sem Myrkranna Høfdíngi muni ei vid svo búid hætta, heldur ýmsum brøgdum beita, til ad fá þennan háit blossanda Eld, aptur á ný dempadan edur dádlítinn gjørdt; hvar fyrir oss bæri því framar vakandi vera, og bidja: ad Andi Guds, sem Eld þennan, svo þeckjanliga, kveiktan hefur, vyrdist ad glæda hann æ meir og meir, og gjæta hans, svo hann hvorki úrættist frá sínu rétta edli, né dapríst ad sínum guddómliga krapti.

Þær merkiligu opinberu samkomur, sem Félög þessi hin heilögu halda árliga, hvar sameinadar bænir trúadra — undir kroptugliga vekjandi og hrærandi rædum — stíga til Guds, um blessun til þeirra fyrirtækja, og eflíngu hans andliga Rikis í heiminum, stoda mikid til ad ala og útbreida þann áminsta heil. Eld í manna sálum, til hvørs mørg dæilig dæmi leida mætti. Svo hafdi þessi undanfarna góda ræda þá verkun á þess danska Misións Félags samkomu þ. 21 Junii 1822: ad strags sama dag voru meir enn 100 Rbd gefnir til Félagsins, og 45 nýir Medlimir — sem árliga til þess leggja — vidbættust, en ádur vóru þeir ordnir 167; en sídan hefur þad merkiliga aukist, og innteklir þess, um einn ársbríng, i hitt id fyrra, urdu hérum 3 þúsund Ríkisdalir.

---

Af því í framanskrifadri Rædu minst er vissra Villuþjóda, einkum á nafn nefndir Hottentottarar, og líka meint til Buschmanna og Kaffara, sem allar búa á sydri hluta Afríku, vil eg hér setja Lesendum lítid sýnishorn fyrir sjónir uppa þad, hvørsu Manneskjur þessar eru, vegna sinnar trúarvillu, í þørmuligasta ástandi bædi í tilliti líkhama og sálar; hvaraf audsjed

er, hvorsu háleit skylda Christinna manna þad sé, ad senda þeim og þvílíkum (af hvorjum nockud hundrud millíoner lifa á vorum jardar hnetti) nádarbodskapinn út af Jesú, svo þeir frá tímanligu, einkum eilífu böli frelsast mættu. Gjæsi Gud sú tíd færdist í hönd!

1) um Hottentottara.

Túnglid er eitt af Afgudum þeim, sem þeir tilbidja. Vid kveikingu þess og fyllingu safnast þeir saman heila nóttu, til ad heilsa því, og láta eckert ódvedur hindra sig þar frá: þeir æpa þá fagnadar ópi, stockva og stedja um jordina, klappa höndum saman og hrópa: „Vér heilsum þér! Vertu velkomin! géf oss fódur handa fé voru, og mjólk ysirgnæfanliga!“ Annar Afgud, sem þeir tilbidja, er eitt vist skorkvikindi, ad leingd sem litli fingur á barni; þad er grænt á bakid en kvidurinn raudur og dröfnóttur; þad hefur 2 vængi, og á höfdi 2 fálmsteingur. Þessu kvikindi sýna þeir dypstu lotníngu. Komi þad nærri bæ nockrum, álitst þad stærsti heidur, og fólkid safnast þá saman, rétt frá sér numid af andagt, í kríngum þad i stórflockum, og strá yfir þad mylsnu af jurtu þeirri, er Spirea nefnist. Sömu mylsnu dreifa þeir og svo yfir hús sín og jordina kríngum þang. Þeir offra kvikindi þessu til æru einum saud, þar þeir trúa, ad nálægd

þess færi bústad þeirra til handa luckn og velgeingni, og jafnvel eilífliga afmái fólksins yfirtrodslur. Setji kvikindi þetta sig á einn af þeirra fólki, er hann undir eins tilbedinn, sem heilagur, þar Gud hafi unt honum svo stakligrar nádar. Hinir álita sér þad stærst-u æru, ad hafa hann í sínu félagi, og útbreida slíkan tilburd, svo vída sem þeir géta. Þeim feitasta uxa, sem til er, er slátrad til fórnar bædi kvikindi þessu og hinum heilaga manni, á hvorn þad setti sig, og þá er haldin stórhátid. Sjálfan þann vonda Anda tilbidja þessar vesælu Manneskjur, og leitast med fórnfæríngum vid ad blídka reidi hans. Í fám ordum: vér gétum med fullum rétti sagt um fólk þetta, ad þad búi í daudans skugga-dal. Hvörsu æskiligt er þá ecki, ad géta kveikt ljós Evangelii midt i þessu skélfiliga myrkri; þar hefur og kristin trú bodud verid, og ædi margir tekid henni vel; en hvad er þad ad reikna móti heilu þjódinni?

2) um Buschmenn.

Mædurnar hjá þessu vilta fólki, byrda ecki börn sín leingur, enn til þess þaug skridid géta sjálf um jördina. Mennirnir fara út á morgna, og koma heim ad kvöldi, og hafa þá eckert annad hvílurúm enn gomul og rifin gjæruskinn, og sedja húngur sitt á litlu af mjólk edur

nockru odru. Hjá þessu fólki verdur madur valla annars var, en villudýrsligra tilhneigínga. Af því nú Búschmanna fólkid fer svo illa med börn sín, er ei ad furda, þo þaug aptur á mót, byrdi lítid um foreldra sína og skildmenni. Þegar þeir fara á dýraveidar, skilja þeir opt vid sína gömlu foreldra og frændur úti á eydimörkum, láta hjá þeim eptir litla næríngu um sinn og vatnssopa ad drecka. En sem þetta uppgeingid er, hljóta Manneskiur þessar ad falla húngurmorda, eda verda villudýrum ad bráð. Margir Búschmenn lifa einúngis af ráni og mordi og fremja hrylliligustu illvirki. Allir óttast þá þessvegna og hafa andstygd á þeim, í þeim plátsum, hvar menn verda þeirra varir; og einn Evrópiskur innbúi álítur þad heidarligasta fyrirtæki, ad drepa nidur fjölda af þessum ólucklegu Manneskjum. Ogsvo er kristin trú bodud medal þeirra, og hefur veltekist ved ymsa; en fjöldinn ráfar þó í hrædiligustu myrkrum.

3) um Kaffrana.

Þjód þessi býr og svo á Sudur Affríku, og framdregur líf sitt á líkan hátt, sem Hottentottarar og Búschmenn. En mjög merkiligt er þad, ad ádur enn reyndar kristnibod til þeirra kom, uppreis madur einn af þeirra eigin fólki, sem prédikadi fyrir þeim, ad þeir

skyldu snúa sér frá löstum sínum. Christnibodsarinn Read kom til þeirra i April 1816; söfnuduſt þá ſtrags yfir 100 Kaffrar kríngum hann, og ſögdu honum ad áminſtur ydrunar prédikari hefdi kénnt ſér: ad þeir ættu ad leggja af hórdóma, mord, þióſnad, fiølkyngi og fl.; en í tilliti þeſs, hvad þeir þyrftu um Guds vilja meira ad vita, hefdi hann víſad ſér til Christnibods-preſtanna, og heitid Landsmønnum ſínum, ad þeir ſkyldu brádliga til þeirra koma og uppfræda þá.

Hvørſu ſtakliga líkur hefur madur þeſſi verid Jóhanneſi ſkýrara, ſem fyrir 18 hundrud árum prédikadi ydrun fyrir Gydíngum, og ſkýrdi þá, ſem játudu ſyndir ſínar, en víſadi ſídan til ſiálfs Jeſú. Read ſeigir frá, ad ſonur herſfóríngja eins medal Kaffranna, ſem fyrr hafdi haldid ſér uppi í þeim hérødum, hvar Christnir Preſtar høfdu tekid ſér adſetur, prédikar nú med miklu fylgi Jeſú trúarbrøgd fyrir Løndum ſínum, hvørja ad húnarar og þyrſtir eptir lífſins ordi; ſvo madur kann bid ſama ad ſeigja um Sudur-Afrícu, ſem Jeſús fordum um Samaríu, Joh. 4, 34: „Sjáid akurløndin, hvørſu þaug eru hvít til kornſkurdar!"

Til þessara villuþjóda hafa, sem ádur er sagt, Christnibodarar sendir verid. Þad Mæhriska Brædra félag hóf þad einna fyrst (eins og vída annarstadar), med hersýniligri Guds adstod. Sömuleidis stofnudu Hollendskir árid 1797 (eptir upphvatníngu Dr. Kemps) eitt félag, til ad senda kénnendur til sudur Afríku. Er svo fyrir þess, og hinna Engelsku, christiliga adburdi heil. trú komin til ýmsra medal nefndra heidíngja. Hvörsu aldeilis einga ímindun ad þessar vesælu Manneskjur hafi hafi um nockud gott, ádurenn Christindómurinn þeim bodadur var, samt hvörsu þær sálir, medal þeirra, eins og hvar annarstadar, sem hann af hjarta medtaka, yfrid merkiliga upplýsast og forbetrast af hans heil. krapti, sýnir fylgjandi skýrsla:

Sá hollendski Prestur Kircherer flutti árid 1803 med sér heim til Hollands, 3 kristnadar Manneskjur frá Hottentotturum, etc. einn karlmann skýrdan Jóhann, og konu hans Maríu, og enn nú aldrada konu, sem nefnd var Martha. A einni opinberri samkomu, i margra áheyrn, setti nefndur Prestur fram fyrir þaug ýmislig spursmál um Christindóminn, uppá hvör þaug greiniliga svorudu.

Spursmál: hvad vissir þú um Gud, ádurenn Christnibodendurnir til ydkar komu?

Svar: vid þecktum alls eckert til hans, og vissum jafnvel ecki, ad þar væri nockur Gud til. Sp. hvad þeinktirdu þá um sjálfan þig? Sv. eg héldt mig ad vera eitt dýr, og meinti ad allt væri úti um mig, þegar eg dæi. Sp. En hvørnig hefur þú nú lærdt ad álíta sjálfan þig? Sv. eg hefi lærdt ad álíta mig fyrir vésæla og synduga skèpnu. Sp. hvørnig er þá møguligt, ad slík syndug skèpna géti feingid nád hjá Gudi? Sv. fyrir Jesú Christs blód! Sp. En, hvørnig kunni Jesú blód, ad umbreyta þínu hørmuliga ástandi? Sv. Sá himneski Fadir hefur álýktad, ad Jesús bera skyldi vorar syndir; og sídan er hann upprisinn af dauda; og hefur þarmed sannad, ad daudi sinn var Gudi þacknæmur; svo Gud fyrir hans sakir vill fyrirgéfa oss allar vorar syndir. Sp. leitadir þú þá ad Jesú ad fyrra bragdi, eda leitadi hann þín? Sv. aldrei mundi eg hafa fundid hann, ef hann hefdi ecki min í fyrstu leitad. Sp. Elskar þú þá Drottinn Jesum? Sv. já eg elska hann, og þó ecki nærri því svo mikid, sem hann hefur unnid til. Eg vildi gjarnan elska hann lángtum heitar. Sp. hatar þú syndina? Sv. já eg hata hana af hjarta, og þó syndga eg dagliga. Sp. Elskar þú Guds bodord? Sv. eg elska þaug af øllu hjarta; en þar, er nockud þad innra í

mér, sem hindrar mig frá ad hlýda þeim, sem eg feiginn vildi; æ Jesús Christur hefur giørdt svo mikid fyrir mínar sakir; og þad kvelur mig, ad eg gét svo lítid giørdt fyrir hans skuld. Sp. hefurdu nockud ad tala til þeirra ümvendtu Christnu, sem hér eru nú nálægir? Sv. já! eg óska, ad þeir vildu strags flýta sér til Jesúm! æ! þad er svo hørmuligt, ad Mannesskjur sem dagliga heyra um Frelsarann, leita hans þó ecki. Og þegar þeir sjá, ad vér vesælings heidíngjarnir flýtum oss á hans fund, til ad komast i himnarìki, þá væri þad' skélfiligt, ef þeir skyldu þá steitast hljóta til helvítis. Til þess er sárgrætiligt ad hugsa!

Eptir þessa yfirheyrslu, sungu þessar 3 affrícanisku Mannesskjur sálm, med hárdla yndisligum hætti. Hægra er ad finna til þeirrar heil. gledi enn útmála hana, sem greip hjørtu manna á þessari fjølmennu Christiligu samkomu, þegar þeir sáu hér uppá þad, sem Ritníngin seigir: „ad Blámadurinn (þad er einn frá Afrícu) útbreiddi sínar hendur eptir Gudi."

Þar eptir gaf, Prestirinn Kircherer, eptir safnadarins beidni fylgjandi asmálun, um mismun á þeim Christnudu og heidnu Hottentottunum: í sínu fyrra ástandi, sagdi hann, hlupu þeir naktir um kring, nú eru þeir þvertámóti klæddir, svipad því sem þessir nálægu

Hottentottarar eru; ádur vóru þeir óhreinir og saurugir, nú eru þeir vanir vid ad þvo sér, og halda sér hreinum; ádur vissu þeir ecki, hvad bók var, nú géta margir medal þeirra lesid í Ritníngunni; ádur höfdu þeir adsetur sitt í vesælum hreisum, og margir þeirra undir berum himni, nú hafa þeir regluliga bústadi; ádur átu þeir eins og villudyr, nú fá þeir sér mat eins og Manneskjur og Christnir; ádur vissu þeir eckert hvad innbyrdis kjærleiki var, nú hafa þeir reyndt hvad kjærleikurinn er; ádur lifdu þeir í ösund og tvídrægni, nú lifa þeir í fridi; ádur vildu þeir aldeilis ecki erfida, nú erfida Hottentottarar dagliga 2 stundir, og eg vona þeir næsta ár erfidi 3, og þar eptir 4 stundir.

Ádur enn María skyldi vid söfnudinn, sagdi hún: Er þad ecki skadi, ad Jesús skuli hafa úthellt sínu blódi, og syndararnir skuli þó ecki vilja til hans koma! Hvör sem til hans kémur mun finna fullkomna hvíld sálu sinni; hann mun komast ad raun um, ad blód hans hreinsar af öllum syndum. En þetta dýrmæta Evangélíum (út af hans fridþægíngu) mun vitna móti Manneskjum á dégi dómsins. Þetta Evangélíum inniheldur þad allt, sem syndárinn vid þarf, svo þad er vor eigin, en ecki Guds skuld, ef vér fortöpumst. Hann hefur þó gésid

oss sitt Evangélîum, til ad frelsa oss syndugar Manneskjur.

Framar sagdi hún: ad hún vissi sjálf, hvad þad væri ad vera módir, og þessvegna vildi hún vona, ad foreldrar mundu vilja leida börn sín til Jesúm, og uppala þaug handa honum en ecki heiminum; og ad þeir mundu ecki ad eins bidja fyrir sjálfum sér, heldur og svo börnum sínum, ad þaug mættu líka sálu hólpin verda.

Enn nú voru eptirfylgjandi spursmál framsett: Sp. hvörsu mörg gódverk hlýtur sá ad hafa gjördt, sem ávinna vill himnaríki? Sv. af náttúrunni kunnum vér eckert gott verk ad gjöra, sagdi hún; og þegar vér, fyrir Guds Anda adstod, gjörum nockud gott, svo kémur oss ecki til hugar, ad vilja forþéna þar med himnaríki; vér forþénum eckert annad enn fordæmíngu; en fyrir Jesú forþénustu sakir, komumst vér til himnaríkis. Sjálf vör bestu verk eru saurug og óduglig fyrir Gudi. Sp. Hvör mismunur er á milli eins sannchristins og eins fals-christins? Sv. Mismunurinn er ecki svo mjög fólginn í því, hvad vér vitum um Christ, sem einkum i því, sem vér reynum af krapti Christs í hjörtum vorum. Sá falschristni þeckir Christ ad eins af bókum og lærdomi, er optast nær stoltur og þeckir ecki sjálfan sig; en

sá sem Christ í anda þeckir, þann er alltíd audmjúkur.

O hvorsu skadligt og stór syndugt er þad, sagdi hún framveigis, ad þeir Christnu í Evrópa, sem í svo morg ár hafa haft gnægd af Lífsins Braudi, hafa ecki meddeilt þeim vesælu heidíngjum einn bita, ecki einn mola þar af. Þér vitid þó, ad þar eru enn nú svo margar Milliónir heidíngja, og þér hafid svo mikid himnabraud, og meigid vera fullvissir um, ad þér hafid eingu minna, þó þér út-býtid heidíngjunum nockru þar af; þvert á móti mundi Drottinn Jesus þarfyrir blessa ydur, og géfa ydur þess meir. Þér þurfid ecki ad hugsa: „þad sem vér kostum uppá þá vesælu heidíngja, er oss hreint tapad.“ Lángt frá! Rádar uppspretta Drottins Jesú er altíd fleyti full. Þúsund og aptur þúsund géta hjálp od= last; því hann er altíd hinn sami, í gjær og í dag og ad eilífu. Þvi meira sem vér gjorum odrum til gagns, því framar bless= umst vér, þess meira gradum vér fyrir sálir vorar. Hvor eyru hefur ad heyra, hann heyri!

En framar þackadi hún ollum þeim Manneskjum sem heidíngjunum hjálp sendt hofd= u, og bætti því vid: „Herra Gud! flyt þú Hottentottarana til Christinna Landa, til ad

sýna, hvílíkan krapt þú hefur, til ad frelsa Syndarana."

Hún gjørdi sér þá von, og huggadi sig vid þad, ad margir mundi sá þad áform, ad útbreida Evangelíum. Enn nú bætti hún þessu vid: „þar vor Drottinn Jesús Christus var svo gódur, ad hann vildi bera þyrni- kórónu fyrir vorar syndir, svo skulum vér sífeldt, med meiri og meiri ástundun, í duptinu fyrir hans fótum, kosta kapps um, ad setja uppá hann Dyrdarinnar-kórónu. O ef fólk þeckti ástand Hottentottaranna, þá trúi eg ecki ødru, enn þad mundi kénna í brjósti um þá. Orsøkin, hvar fyrir Gud hefur géfid þeim í Evrópa svo mikla gnægd af øllu, var sú, ad þeir rétta skyldu hjálpar hønd sínum vesælu medmanneskjum." Hún þackadi þeirri Engelsku þjód fyrir þad hún sendt hefdi heidingjum Christnibodara, og sagdi: „Med þvi Gud hefdi opnad heidingjunum dyr, enn þar væru þó enn nú svo margar þúsundir, sem ei þecktu hann, þá ættum vér ad bidja fyrir þeim, sem Christna trú boda, og gjøra allt hvad vér megnum til ad styrkja Missíóns (edur Christnibodskapar-) félagid; þar vér meigum fullvissir um þad vera, ad Gud vill leggja þar til blessun sína. Hun kvadst nú fara til lángt fraliggjanda lands, og byggist ecki vid optar, ad sjá søfnud þennan, hér í

heimi. „Nú, farid þá vel, þér Guds fólk! hrópadi hún! fyrir Dyrdarinnar tróni mun eg þig aptur finna! En þeim sem enn nú ecki réttiliga elska Gud, vildi eg þá áminníngu géfa, ad þeir sem fyrst snúi sér til Jesú, uppá þad vid ollsaman mættum sjást aptur á sídasta deigi, vid Jesú hægri hönd.“ En þad allra sídarsta ord sem eg enn nú vil gjarnan seigja, er þetta: „Æ! bidjid fyrir þeim vesælu heidíngjum!“

Þess meigum vér med gildum ástædum vona, ad sá einfaldi og tilgjördarlausi máti, á hvorn þessir heidíngjar létu sína sannfæríngu um Evangélium, og krapt þess í þeirra hjörtum, í lífi, samt vottudu sinn brennandi kjærleika til Endurlausnarans, hafi ordid blessad medal til ad uppbyggja margra sálir. Skomuu þar eptir reistu þessir christnudu Hottentottarar med heilsu og luckn heim aptur til síns Fodurlands.

---

Sjáum Brædur, hvorsu Post. ord Rom. 8, sannast hér: ad oll sképnan (nefnil. heidíngjarnir, sem vegna síns villudóms eru líkari bestíum enn monnum, jafnvel þó skynsemin í þeim búi) bídr med þreyíngu eptir opinberun Guds barna; þvi þared sképnan er hégómanum undirlögd, án síns vilja, mun hún ad

sønnu, á sínum tíma, frelsud verda frá þrældómi forgeingiligrar veru, til þess dýrdarliga frelsis, er binir Christnu, sem Gudsbørn kallast, njótandi eru. O hvørsu stór skylda er þad þá fyrir oss, sem børn køllumst, ad hjálpa til ad þessi laungun brædra vorra af náttúrunni, sem fyrst uppfyllist, hvørra sinnis-lidunum Postulinn líkir vid neyd jódsjúkrar kvinnu! Hvør sem þetta les, sá gjæti þar ad!

*Merkilig Dæmi til heil. driftar ad stipta Christni-bodid.*

J því Bretska (edur Eingelska) ríki eru 13, ef ecki fleiri, Missións féløg, sem saman leggja stórar Summur, til ad útsenda Presta til heidíngjanna í øllum heimsins álfum; og þessar gjafir koma ei svo mjøg frá þeim ríku og mekugu, sem frá fátæku fólki, eckjum og børnum. A einni samkomu adal-félagsins kom einn af Forstjórum þess upp med þad, ad þad yfrid naudsýnligt væri, ad félagid ætti sjálft eitt hafskip til ad flytja Prestana á, og færa þeim naudsynjar þeirra.

Einn viss madur, sem á þetta heyrdi, komst mjøg vid af þessu, en áleit þó, ad félagid mætti ei missa af sínum vanaligu inntektum til þess, frá því sem þad þyrfti ad kosta uppá kénslu Prests-efnanna til christnibodsins, og alla forsorgun þeirra sem útsendir væru.

Hann géck svo heim til sín, samansafnadi húsfólki sínu, og giørdi beita bæn til Guds, um ráð og adstod til þessa fyrirtækis, honum til dýrdar. Hann átti 10 børn, vid hvor hann taladi um þetta efni sér i lagi. Nú áttu børnin eckert í sínum litla kassa, nema fáeina skýldínga, sem þaug nærsta dags vid Messu ætludu eptir vana, ad gésa i Missíóns tøbluna. Þaug bádu þá øll fødur sinn ad leggja sér ráð, hvornig þaug ættu ad fara ad styrkja fyrirtækid um Missíóns-skipid. Fadirinn neitadi þeim þess, því hann æskti þaug skyldu sínga uppá því sjálf, af frívilja. Gaf þá eitt þeirra i skyn, ad þaug gétid gjætu alla sína vikupenínga fyrir heilt ár, ef fadir sinn vildi gésa sér þá fyrirfram. Þetta líkadi fødur þeirra vel, og gaf þeim alla vikupenínguna. Sídan afhendtu þaug honum þá aptur, sem gáfu til Missíóns félagsins; og þad sem merkiligast var, ad þad ýngsta frambar fyrst sitt offur.

Ennnú merkiligra er fylgjandi Dæmi:

Vinnustúlka ein í sama húsi — sem þó ecki vissi hvad børnin giørdt høfdu, beiddist ad tala vid húsbónda sinn einsliga, og sagdi honum, ad sig lángadi mjøg eptir ad gésa tillag til Missíóns skipsins, en kvadst eingan

Alldíng eiga í eigu sinni. Þar á móti sagdist hún vel géta verid án þess smjörs, sem hún fengi dagliga vid braudinu, og bad þvi húsbónda sinn, ad reikna saman, hvad mikid þad hlypi í heilt ár, hvörs andvyrdi hún qvadst vilja géfa til Missións félagsins; hvar vid hún bætti þeim frómu ordum: ad hún vildi med lángt stærri ánægju eta sitt braud þurt (fyrir þessa skuld), en þó þad hefdi med gulli smurt verid. Húsbóndi hennar þackadi henni þeirra vesælu heidíngja vegna, í hans nafni, hvöru hennar sál elskadi; og hún bætti þá enn fjórda parti af sinu árs kaupi þar vid, sem hún bad ogsvo húsbóndan ad útleggja fyrir sig.

Önnur vinnustúlka gaf 4 Specíur, er hún dreigid hafdi saman af árligu kaupi sinu.

Med inniligasta þacklæti vid Gud, sem beyrdt hafdi þessa góda manns bæn, slutti hann svo hérum 300 Rdl., sem safnadir vóru í húsi hans, til eins síns trúfasts og velmeigandi vinar, og spurdi hann: „hvört hann vildi nú ecki lika svo safna tillagi?" þessi vinur hans gaf þá nockud meira enn 1000 Rdl. og frá ödrum bættist svo mikid vid, ad gjöfin vard yfir 2000 Rdl. ad lokunum. Þessi gjöf var sídan send til félagsins med einu bréfi án und-

irskriftar, svo þessa góða mans nafn er þvi dulið, þvi hann þeinkti ecki að uppskéra æru eður þacklæti hiá mønnum, fyrir þetta verk sitt; heldur mun hann minst hafa Jesú orða sem sagði: „þegar þú géfur ølmusu, þá lát þína vinstri hønd ei vita, hvað sú hægri gjørði; svo þín ølmusa sé í leyni, og þinn Faðir, sem í leyni sier, meigi þér það opinberliga endur gjalda“ Matth. 6, 3, 4.

---

Lát, kjæri Lesari! Lát Dæmi þessi og ønnur slík hræra þig, og símina þér sem heil. Andi hvísli þér i eyru undir eins og þú les þaug eða heyrir:

Far þú, og gjør slíkt hið sama!

---

Síð. 5 Lín. 20 Hottintaranna l. Hottintottaranna.